# Sameiningin.

*Mánaðarrit til stuðnings kirkju og kristindómi Íslendinga gefið út af hinu ev. lút. kirkjufélagi Ísl. í Vestrheimi.*

RITSTJÓRI *JÓN BJARNASON.*

18. ÁRG. WINNIPEG, SEPTEMBER 1903. NR. 7.


## Eining.

Eftir séra Rúnólf Marteinsson.

Blað þetta ber nafnið ,,Sameiningin''. Sjálfsagt hefir það vakað fyrir þeim mönnum, sem völdu því það nafn, að það skyldi vera afl til að sameina þjóðflokk vorn í heimsálfu þessari. Það átti það að gjöra með því að koma til manna á því tungumáli, sem þjóðflokki vorum er kærast, og þó enn fremr með því, að berjast eindregið fyrir því málefni, sem mest afl hefir í sér til þess að draga hjörtun saman. Það málefni er kristindómrinn, —hreinn og ómengaðr lúterskr kristindómr. ,,Eg em vínviðrinn, þér eruð greinarnar''— sagði Jesús Kristr. Á þessu einmitt byggist sú bœn hans ,,að allir sé eitt''. Tréð lætr sama lífsvökvann streyma út í allar greinarnar, og þess vegna er svo afar náið samband milli þeirra. Lærisveinarnir draga allir hinn andlega lífskraft sinn frá sama frelsaranum, drekka allir af sama andlega brunninum; sama lífsaflið er í þeim öllum, og þess vegna eru þeir eitt. Sannr kristindómr í hjörtum einstaklinganna dregr þá ósjálfrátt saman. Hann er hin rétta undirstaða sannrar einingar. ,,Kappkostið að varðveita eining andans í bandi friðarins. — (Þér eruð) einn líkami og einn andi, eins og þér einnig eruð kallaðir í einni von yðar köllunar. Einn (er) drottinn, einn trú, ein skírn, einn guð og faðir allra, sem er yfir öllu, um allt og í öllu''. Ef. 4, 3—6.

Hefir oss nú tekizt að ná þessu takmarki?

Mannleg eigingirni setr ætíð þröskuldi í veginn. Hún

lætr einstaklinginn oft hlynna að sínum eigin hagsmunum í stað hinnar sameiginlegu velferðar. Auk þessa, sem er almennt einkenni, er oft sagt, að vér Íslendingar höfum sérstaka sundrungar-tilhneiging. Og þetta er satt. Það er svo undrlítið af stjórnsemi í eðlisfari voru. Œðsta hugsjón Rómverja var *ríkið*. Fyrir því urðu einstaklingarnir að beygja sig. Hve nær sem ríkið kallaði, voru einstaklingarnir reiðubúnir að hlýða. Starf þeirra og líf stóð ríkinu til boða hve nær sem vera skyldi. Fyrir þá sök eru hinir fornu Rómverjar fyrirmynd heimsins í stjórnarfari, og fyrir þá sök er dóttir gamla rómverska ríkisins, rómversk-kaþólska kirkjan, svo voldug. Œðsta hugsjón Íslendinga í fornöld var þar á móti sjálfstœði einstaklingsins. Hver einstaklingr var í raun og veru konungr. Fyrir hann var ríkið til. Einstaklingrinn var ritaðr efst á blaðið, ríkið neðar. Þegar maðr svo hugsar sér, að við þetta hafi bœtzt vanaleg mannleg eigingirni, verðr auðsætt, að sundrung hlaut að verða. Að hér er ekki rangt með farið sannar saga Íslands, og að œði-mikið af þessu sama einkenni hafi fylgt oss ávallt síðan getr engum dulizt, sem ekki er blindaðr af hlutdrœgni.

Var nú með þetta í huga hœgt að ímynda sér, að sameining gæti átt sér stað hjá oss eftir að vér fluttum í nýtt land? Var það ekki býsna mikið efamál? Var ekki skynsamlegt að ætla, að sundrungar-eðli Íslendingsins myndi hér brjótast út í algleymingi, þegar öll böndin, sem þrengdu að honum á fóstrjörðunni, voru slitin, og ný öfl, trúarleg og þjóðernisleg, léti til sín taka með seiðanda krafti, til þess að hylla hann að sér, og þá um leið til að sundra?

Einmitt þá fóru tvö gömul öfl að birtast með nýju fjöri. Þau voru íslenzkt þjóðerni og lúterskr kristindómr. Eins og elskan til foreldra fær oft nýja vakning við það að börnin verða að fara úr föðurgarði, eins vöknuðu að nýju hjá oss þessi tvö öfl, þegar vér vorum komnir burt frá fóstrjörð vorri og höfðum tekið oss bólfestu í nýju landi. Og svo var þá byrjað að vinna, og árangrinn varð *íslenzkt lúterskt kirkjufélag*. Það reyndist og reynist enn sterkasta aflið til þess að sameina Íslendinga í Ameríku. Þrátt fyrir alla örðugleikana og þrátt

fyrir hinar seiðandi raddir frá öðru þjóðerni og öðrum kirkjudeildum, sem eru svo miklu sterkari en félagskapr vor, hefir kirkjufélagið verndað oss frá því að detta sundr í mola.

Síðasta kirkjuþing var eitt hið þýðingarmesta kirkjuþing, sem vér höfum nokkurn tíma haldið; og það er eitt einkenni á því, sem gefr oss rétt til að tala þannig.

Á sumum kirkjulegum þingum eru valin sérstök orð til þess að vera einkunnar-orð, og er svo til ætlazt, að þau gangi eins og rauðr þráðr í gegn um allt þingið. Þetta hefir ekki verið siðr hjá oss; en eitt orð varð nú ósjálfrátt að einkunnarorði, og gekk eins og rauðr þráðr í gegn um þing vort hið síðasta allt frá upphafi til enda. Það var orðið *eining*. Þetta var einkennið, sem gjörði þingið svo þýðingarmikið. Þetta byrjaði með prédikan forsetans í þingbyrjan út af bœnarorðum frelsarans á eftir skilnaðarrœðunni (Jóh. 17, 17—23), þar sem meðal annars þetta stendr: ,,svo að allir sé eitt, eins og þú, faðir, ert í mér og eg í þér, svo að þeir og sé eitt í okkr, svo heimrinn trúi, að þú hafir sent mig''. Sú rœða (sjá ,,Sam.'', Júlí 1903) var sterk rödd hvetjandi oss til að standa saman sem einn maðr.

Ef aldrei reynir neitt á krafta vora, líkamlega eða andlega, verðum vér aldrei sterkir. En til þess vér getum orðið sterkir andlega er aðal-atriðið það, að vér kunnum að beita oss, þegar eitthvað verulega reynir á. Þegar slíkt kemr fyrir, verðr augljóst, hvort vér höfum afl eða ekki. Þetta kom einmitt fram á síðasta kirkjuþingi. Þar reyndi verulega á þau bönd, sem binda oss saman. Sjálfsagt hefir aldrei áðr reynt á þau neitt líkt því eins mikið og í þetta sinn. Oft leit út fyrir, að sundrungar-öflin yrði yfirsterkari. Mannleg eigingirni var þar líka með til þess að styrkja þau. En þá brauzt ætíð fram á vígvöllinn eins og ungr ósigrandi risi, vilji til þess að hefja kirkjufélag vort upp yfir allan ágreining, að skipa því œðra sess, en velja flokkum og einstaklings-kreddum lægra sess. Heitr kærleikr til kirkjufélagsins kom fram í rœðum manna; og aldrei hefir það áðr verið tekið fram jafn-skýrt af jafn-mörgum mönnum, hve nauðsynlegt það er fyrir oss að vera eitt, hvílík skömm það væri fyrir oss að sundrast. Ein

bœnarorð hljóma til mín frá þessu kirkjuþingi, orð, sem voru borin fram sameiginlega af öllum þingmönnum úr öllum pörtum kirkjufélagsins gegn um allt þingið, orðin þessi: ,,Drottinn, gefðu, að vér verðum ávallt eitt.''

Og svo lifðu menn bœnina. Menn lögðu í sölurnar fyrir bœn sína. Menn beygðu sig. Menn létu einstaklings-kreddur sínar og flokkskröfur víkja fyrir sameiginlegri velferð kirkjufélagsins. Með þessu kom í ljós, hvílíkt afl til sameiningar vér eigum. Einmitt við reynsluna kom það fram. Vér höfum ástœðu til að vera guði þakklátir fyrir þetta. Og þótt, ef til vill, enn meir kunni að reyna á sambandið á næsta kirkjuþingi voru, og þótt vér svo sem að sjálfsögðu eigum margan harðan bardaga fyrir höndum, þá biðjum þó drottin allir, að hann gefi kirkjufélagi voru sigr ekki minni en á þessu þingi!

En því að eins getum vér verið sameinaðir jafnvel í kirkjufélaginu, að vér horfum ekki stöðugt á sjálfa oss, heldr málefnið og höfund þess, Jesúm Krist, frelsara vorn, sem hefir dáið fyrir oss alla jafnt og boðið oss öllum jafnt til föðurhúsanna á himnum, þar sem eining vor verðr loks fullkomin.

---

## Hornsteinslagningar-rœða séra Fr. J. Bergmanns.

Ávallt er það all-mikils um vert, er lagðr er hornsteinn þess eða þess húss. Það skiftir ætíð mjög miklu máli, að slíkr steinn sé vel lagðr, og að það, sem ofan á hann er byggt, geti óhult hvílt á undirstöðunni og húsið dugað vel og lengi og fullnœgt hinum upphaflega tilgangi þess. Þó er þetta um fram allt áríðanda, þegar um húsgjörð í andlegum skilningi er að rœða. Þar verðr ekkert að neinu nýtt nema því að eins, að djúpt sé grafið fyrir undirstöðunni og svikalaust um hana búið á hinum eilífa sannleik. Kristin kirkja hefir drottin vorn og frelsara Jesúm Krist fyrir hornstein sinn, hann og ekkert annað. Og tilgangr þessarar hornsteinslagningar er að eins sá, að tákna þann mikilsvarðanda sannleik, sem aldrei má gleymast, og gjöra almenningi hann minnisstœðan.

Hinn sérstaki tilgangr húss þess, sem hér á að reisa, er sá, að það sé guðsþjónustuhús. Og meðal húsa þeirra, sem

komið er upp með manna höndum, eru engin, sem hafa eins háleitan og frábærlega mikilsverðan tilgang. Kristin guðsþjónusta er hin háleitasta og helgasta athöfn, er menn taka sér fyrir hendr. Með þeirri athöfn varpar mannleg sál sér fram fyrir fœtr hins almáttka skapara síns til þess að sárbœna hann um hjálp og hjástoð, náð og fyrirgefning, leita huggunar og hjartastyrkingar, fá andlegt þrek og hugrekki til þess að standast í áframhaldandi baráttu lífsins. Í og með kristinni guðsþjónustu leitar syndfallið mannkyn guðlegs hjálpræðis, og eftir þeim farvegi lætr drottinn œðra og andlegra líf til vor streyma. Því meira sem vor á meðal er um sanna og hreinskilna guðsþjónustu, því meira er hjá oss af hjálpræðinu. Því fleiri musteri sem reist eru guði til dýrðar, því betra tœkifœri til að veita viðtöku hjálpræði hans. Því fleiri kirkjur sem vér höfum í þessum blómlega og fagra bœ vorum, því meira verðr um sannarlegt trúarlíf vor á meðal, og því fleiri drenglundaðir, heiðvirðir, löghlýðnir borgarar.

Sérhver ný kirkjubygging vor á meðal er vottr þess, að verið er af ófullkomnum mönnum með sívaxandi atorku að vinna hið góða verk heilags anda heiminum til frelsunar. Það að hér í Winnipeg er lagðr hornsteinn nýrrar og göfugrar lúterskrar kirkju ætti því að hrífa söfnuðinn til fagnaðar, þakklætis og heillaóska ; en ekki að eins fólk þessa safnaðar, heldr og þá alla, sem bera velfarnan mannfélagsins fyrir brjósti. Fyrir því eru margar ástœður, og með yðar góða leyfi skal eg nú í svo stuttu máli sem mér er unnt benda yðr á nokkrar þeirra.

Hið lúterska nafn hljómar undarlega í eyrum margra. Þeir hafa enga hugmynd um, hvað það táknar eða til hvers það bendir. Í hugum margra táknar það eitthvað útlendingslegt og jafnvel eitthvað, sem hefir keim af háttum villumanna. Þeir líta að minnsta kosti á lútersku sem óœðri kristindómstegund. Að sumu leyti er lúterska kirkjan útlendingr á meðal systra hennar, kirkjudeildanna, sem enska tungu tala, að minnsta kosti hér í Canada. Hún er kirkja útlendra manna, sem mæla á tungum margra landa og hafa komið langt að til þess að leita hamingju sinnar á meðal frænda

sinna, er runnir eru af engilsaxneskri rót, og dýrka hinn himneska föður vorn samkvæmt hugsjónum forfeðra sinna í þessu fagra landi trúarlegs frelsis og umburðarlyndis.

Eðlilega rís þá þessi spurning upp: Hvað merkir lýsingarorðið lúterskr? Hvert er sérkenni lútersku kirkjunnar? Er það kirkja, sem óhætt er að reiða sig á, að því er snertir stefnu hennar og stjórn, undirstöðu-atriði trúarinnar og skýring fagnaðarboðskaparins að aðal-málinu til? Eða er það ein þessara skammlífu félagsmyndana, sem allt í einu hafa þotið upp og með tilveru sinni fremr stuðlað að því að koma trúarlífinu á tjá og tuudr en að efla sannan kristindóm?

Það myndi vissulega taka of langan tíma, ef eg fœri að svara spurningum þessum út í æsar eða svo, að segja mætti, að fullkomlega væri úr þeim leyst. Að eins leyfi eg mér að benda yðr á það, að meðal þeirra, sem kunnugir eru hinni kristnu menningarsögu vorri á fyrri og síðari tímum, er það almennt viðrkennt, að lúterska kirkjan er eitt hið helzta af öflum þeim í mannkynssögunni, sem flytja fólki hin sáluhjálplegu sannindi kristindómsins. Lútersk trúarjátning er ráðandi meðal Prótestanta á Þýzkalandi, svo og meðal Norðrlandabúa, að Íslendingum meðtöldum. Enginn mun mótmæla því, er eg segi, að eins og lúterska kirkjan var í fylkingarbroddi Mótmælenda á reformazíónar-tíðinni, þannig hefir hún ávallt síðan lagt drjúgan skerf til þeirra trúarhugsana heimsins, sem sett hafa mót á kirkjulífið og ráðið vexti þess og viðgangi. Þau áhrif hefir hún einkum haft með guðfrœðaritverkum sínum og vísindum, hinum frægu háskólum sínum og hinum lærðu kennurum sínum í guðfrœðinni. Margar hinna allra-beztu lærdómsbóka í guðfrœði, sem notaðar eru í helztu prestaskólum Englands, Bandaríkjanna og í Canada, eru frumsamdar af lúterskum kennurum og hafa síðan verið þýddar á enska tungu. Engin ástœða er því til þess, að litið sé hornauga til lútersku kirkjunnar svo sem hefði hún minni og færri kosti sér til ágætis en aðrar kirkjudeildir. Hún hefir af sér getið og er stöðugt að geta af sér hinar göfugustu manndóms-einkunnir. Það er alls engin hending, að meðal hinna

mörgu þjóðflokka, sem svo afar fjölmennir hafa streymt inn í meginland þetta úr Norðrálfunni og nú loks eru óðum að ryðja sér braut inn í norðvestrhéruð Canada, hefir það fólk, sem komið hefir úr lúterskum löndum, Þýzkalandi og Norðrlöndum, reynzt eftirsóknarverðara en allt annað fólk, og að því þá einnig hefir tekizt betr í framsóknarbaráttunni en öllu öðru fólki.

Fyrir 27 árum eða því sem næst kom all-stór hópr Íslendinga hingað og settist hér að í fylki þessu, og síðan hefir fólk frá Íslandi stöðugt verið að koma og taka sér hér bólfestu. Eg hygg það hafi verið hinir fyrstu landnámsmenn í Vestr-Canada, sem byrjuðu á því að hlynna að trú sinni samkvæmt kenning og venjum lútersku kirkjunnar. Nú eru víst einar tíu þúsundir lúterskra Íslendinga hér í Manitoba. En engan veginn eru það einu Lúterstrúar-mennirnir, sem hér eiga heima. Stórir hópar Þjóðverja hafa verið að streyma inn í fylkið, og þýzku byggðirnar, sem nú breiðast óðum út víðsvegar um Norðvestrlandið, eru orðnar margar, og að þeim kveðr mikið. Einnig fólk úr Svíþjóð og Norvegi hefir tekið að þyrpast inn í landið furðulega fjölmennt, og innan skamms munuð þér sjá lúterska söfnuði á víð og dreif um öll þessi héruð. Hér í bœnum höfum vér þegar tvo þýzka lúterska söfnuði, tvo sœnska og tvo íslenzka. En söfnuðrinn, sem nú er að reisa sér hér nýja og fagra kirkju, er að því er vér vitum elzti lúterski söfnuðrinn í bœnum.

Upp frá þessu hlýtr því að verða tekið tillit til lútersku kirkjunnar sem sérstaks þáttar í fólkslífinu hér. Þar sem lúterska kirkjan hefir haft svo mikil og góð áhrif á kristið menntalíf yfir höfuð, þá lifi eg í þeirri von, að hún eigi framvegis ósvikinn og öflugan þátt í því að mennta og kristna þetta fagra norðvestrland. Þótt hún sé kirkja erlendra manna, þá eru þó meðlimir hennar skuldbundnir til að reynast góðir borgarar eigi síðr en menn vel kristnir, svo framarlega sem þeim er um það hugað að þræða lífsstefnu þá, sem kirkja þeirra endr fyrir löngu hefir afmarkað þeim.

Vér lúterskir menn gjörum vel í því að minnast þess, að kirkja vor hefir ávallt verið íhaldsöm kirkja í beztu merking

þess lýsingarorðs. — Hún hefir ætíð verið fastheldin að því er snertir kenninguna, trúarjátninguna, tíðareglur og kirkjulegan aga, en jafnvel líka að því er það snertir, að láta guðsþjónustu-hús sín hafa sérstakt byggingarsnið. Þessarar fastheldni við fornar venjur ætti menn fyrir hvern mun að gæta hér í þessu nýja landi, sem hún er að nema og leggja undir sig. Fyrir þessa sök hefir lúterska kirkjan um fram aðrar kirkjudeildir verið nefnd sögu-kirkjan, því að í tíðareglum sínum og byggingarskrauti sínu hefir hún á skeiði framþróunar sinnar vandlega gætt þess að slíta sig ekki frá liðnu tíðinni, hafandi aldrei fleygt neinu því burt frá sér, sem í sjálfu sér er fagrt og uppbyggilegt, allt svo lengi sem það kom ekki í bága við hreinan lærdóm truarinnar og anda fagnaðarboðskaparins.

En kirkja vor er ekki að eins íhaldsöm, heldr og framstígul. Hún er ekki að eins kirkja hins liðna tíma. Meðlimir hennar geta virzt all-forneskjulegir, þegar þeir lenda hér í Winnipeg, komandi úr gamla heiminum inn í nýja heiminn. En innan fárra daga verða þeir naumast þekktir frá nútíðarfólkinu; því að þeir eru ungir í anda, með góðri hugsunargreind, hreinskilnir í trúarefnum, fljótir til að tileinka sér allt nýtt, sem þeir sjá að muni styðja að velfarnan þeirra. Lúterska kirkjan leitast við að sameina fortíð og nútíð. Bæði sögulegr andi og andi nýrrar tíðar, eða það, er réttilega má svo nefnast, einkennir alla verklega framkomu hennar.

Að einu leyti er hún þó ekki kirkja nýrrar tízku. Hún lætr ekki auglýsingar út ganga um starfsaðferð sína, framfarir sínar eða sigrvinningar. Hún vinnr verk köllunar sinnar mjög kyrrlátlega. Hún er ekki eitt þeirra háværu afla, sem reyna að vekja athygli allra, er fyrir þeim verða, með því að láta sem allra mest á sér bera. Hún er öllu fremr eitt hinna þögulu afla, vinnandi skylduverk sitt á líkan hátt og hjúkrunarkona í sjúkrahúsi. Það má vel vera, að hún sé of þögul, láti of lítið til sín heyra um sig sjálfa og verk sitt. Og vera má, að einmitt þessi þagmælska hennar sé orsök þess, að hún er svo lítt kunn hinum ensku-mælandi kristnu trúarbrœðrum vorum. Sökum þess, hve ófús hún er til þess að láta nokkuð

á sér bera, má vel vera, að fyrst um sinn verði ekki eftir henni tekið; en af því mun að eins leiða það, að hún verðr þess meir metin, þá er árangrinn af starfi hennar er orðinn lýðum ljós.

Látum þá tækifœri þetta brýna fyrir oss þá helgu skyldu að lifa samkvæmt hinum göfugu hugsjónum lútersku kirkjunnar, með því að það eru hugsjónir kristindómsins. Látum kirkju þá, sem hér er reist, vera minnisvarða hinnar þögulu, en staðgóðu og heitu trúar, sem var hið lang-bezta í arfi þeim, er íslenzku innflytjendrnir tóku með sér frá hinni ástkæru ættjörð þeirra. Og látum þann arfshluta helgast svo, að hann fái gengið vaxandi frá manni til manns í gegn um margar kynslóðir.

---

## Rœða séra Hans B. Thorgrímsens.

Vér höfum safnazt hér saman í dag til þess að leggja hornstein þessa helga húss. Guð gefi, að hinn góði heilagi andi hans sé með oss, svo að það, sem vér tölum og gjörum nú, fái orðið honum til dýrðar og sjálfum oss til blessunar.

Hús þetta á að vera guðs hús, og með því er mikið sagt. Vér finnum til þess, hve smáir og hverfandi vér erum, þegar vér leitumst við að útskýra það. Því hver getr mælt og skilið návist guðs?—hans, sem býr í musteri því, er ekki er með höndum gjört,—hans, er vér lifum í, hrœrumst og erum. En vér skulum ekki reyna til að útskýra það. Látum það nœgja að vér vitum, að hann lætr sér þóknast að kalla það sitt hús, sitt musteri. En hús þetta á líka að vera tilbeiðslustaðr. Á þessum stað skal söfnuðr guðs koma saman til þess að íhuga hjálpræði hans og virða fyrir sér gjafir þær, sem hann hefir veitt mönnunum.

En húsið á einnig að vera minnisvarði—minnisvarði guði til dýrðar,—minnisvarði, sem bendir á kærleik hans og náð og beinir hugum allra þeirra, er dýrka hann innan veggja þess, og allra, er hér ganga fram hjá, að hinni óendanlegu miskunnsemi hans og gœzku. Það á að vera minnisvarði, sem ber þess vott, að hér í þessum stóra bœ á heima fólk, sem heldr

fast við hin miklu meginatriði sannleikans eins og hann er kenndr og varinn og fyrir honum barizt af hinni evangelisku lútersku kirkju; — sannleika, sem að öllu leyti er samhljóða opinberan þeirri, sem guð hefir veitt oss í sínu heilaga orði; sannleika, sem veitir líf og frelsan, og líkamlega býr í hinum blessaða frelsara vorum og drottni Jesú Kristi, honum, sem lýsir yfir því um sjálfan sig, að hann sé ,,vegrinn, sannleikrinn og lífið''.

Hornsteinninn, sem hér er lagðr í dag, á þannig að tákna hann, sem er hinn sanni hyrningarsteinn. Hann skal samsettr af öllum þeim efnum, sem eru aðal-efnin í hinni andlegu bygging, hinni ósýnilegu kirkju guðs. Og hann skal gjöra undirstöðuna svo sterka og trausta, að hún skal ekki bifast fyrir stormum fyrirlitningar, vantrúar og hatrs.

Ef vér leggjum hornsteininn í þessum anda, þá lofum vér miklu. Þessi framkvæmd vor hér í dag er í sannleika verklegt fyrirheit og verkleg trúarjátning.

Höfum vér nokkurn rétt til að vinna heit og gjöra játning? Er ekki allt þetta meiningarlaust mont? hégóminn einber? tælandi látalæti? Eða er það ósvikinn sannleikr? Er það fagnandi upplyfting hjarta og sálar til guðs? Er það veruleg guðsdýrkan? hreinskilin, auðmjúk tilbeiðsla? auðug að trú, full af trúnaðartrausti, hlýðni, þekking?

Skilyrðið fyrir því að svo sé er þetta: Vér höfum rétt til að kalla oss kristna menn, lærisveina drottins, svo framarlega sem vér erum það í raun og veru. Annars er það að eins til að sýnast, — hin versta og fyrirlitlegasta svika-ábreiða, sem hugsazt getr. Vér höfum rétt til að stæra oss af því að bera nafnið *lúterskir menn*, svo framarlega sem vér erum lúterskir. Annars er það gabb, lánaðar fjaðrir, tælandi glitvefr, einkennisbúningr afglapa.

Þessi hornsteinn er partr af undirstöðu evangeliskrar lúterskrar kirkju. Gætið vel að því. Athugum, hvað það merkir. Þér hafið ekki, vinir mínir og bræðr, tekið af yðr yfirhafnirnar og lagt herðar yðar fram til þessa mikla verks með það í huganum, að láta það verða nafnið tómt eða að eins til að sýnast. Þér hafið gjört það fyrir þá sök, að þér

trúið á undirstöðu-atriði þessarar kirkju yðar, undirstöðuatriði, sem eru guðleg og hvíla á hellubjarginu eilífa, Kristi.

Lúterska kirkjan er í sannleika ameríkönsk kirkja. Í dýpsta skilningi orðsins er hún frjáls kirkja, frjáls í sínu innsta eðli. Engum manni er þar veitt neitt einræðisvald. Hver einstök sál innan lútersku kirkjunnar er frjáls — og allir eru jafnir. Ekkert kredduvald frá fornri tíð, ekkert andlegt helgivald ræðr eða ríkir í lútersku kirkjunni. Enginn maðr ber neina œðsta prests kórónu vor á meðal. Enginn hefir andlegan veldissprota fyrir sig að bera til þess að stjórna með safnaðarlýð vorum. Andlegir þrældómshlekkir þekkjast ekki í herbúðum vorum. Söfnuðrinn sá og sá kallar til sín og setr í hirðisembættið að eins þann mann, sem fólkið vill hafa. En þó erum vér ekki fyrir þessa sök lúterskir.

Lúterska kirkjan er kirkja margra skóla, — kirkja lærdóms og upplýsingar. Menntastofnunum, er hundruðum skifta, hafa lúterskir menn komið upp — fyrir fé, sem aflað hefir verið á heiðvirðan hátt með harðri vinnu. Ýmiskonar lærða skóla, œðri og lægri, hefir hún stofnað, þar sem fólk er menntað fyrir lífið og því veitt hin ágætasta tilsögn í öllum nytsamlegum frœðum; þeir skólar sá víðsvegar út dýrmætum, blessuðum frækornum frelsis, löghlýðni og annarra borgaralegra dyggða og kristindóms. En þó erum vér ekki heldr að eins fyrir þá sök menn lúterskir.

Lúterska kirkjan er kirkja margra tungumála. Á ensku og frakknesku og þýzku og öllum öðrum nútíðartungum Norðrálfunnar, á tungu Zúlú-Kaffa í Afríku, á kínversku og japönsku, á finnlenzku og lapplenzku er lútersk lífsskoðan og trú daglega kennd og prédikuð. Á meðal svertingja í suðri og Eskimóa í norðri, á meðal Indíana á preríunum í heimsálfu þessari, er kirkja vor með brennanda áhuga og kappi og með ágætum árangri árið út og árið inn að vinna verk sitt. En ekki heldr fyrir þá sök erum vér menn lúterskir.

Lúterska kirkjan er kirkja framtíðarinnar. Fyrir sakir menntastofnana hennar, sem allir geta notað sér, og hinnar frjálslegu andastefnu hennar, — fyrir þá sök, hve samvizkusamlega hún leggr áherzlu á þau sannindi, sem hafa svo mikla

þýðing fyrir lífið, — fyrir þá sök, að hún á hinum mörgu tungum og með hinum frjálslegu og einföldu tíðareglum sínum og seremoníum nær svo vel til almennings, — fyrir þá sök, að hún lætr hvorki tízkuna, né neinn höfðingjahátt, né viðhöfn verða til þess að staðfesta djúp á milli prédikunarinnar og prédikaranna annars vegar og alþýðu hins vegar, — sökum þess, hve skýrt og einfaldlega og afbakanalaust hún flytr boðskap guðs orðs, — fyrir sakir alls þessa er lúterska kirkjan framtíðarinnar kirkja. Allt þetta getum vér með fyllsta rétti sagt um kirkju vora. Og þó erum vér ekki fyrir þessar sakir lúterskir menn.

Hví erum vér það þá? Vér erum lúterskir fyrir þá sök, að kirkja vor stendr á tveim stólpum eða súlum, sem aldrei verðr um koll kastað. Guð almáttugr hefir reist þá tvo stólpa upp. Þeir stólpar standa stöðugir, og engir stormar fá þeim haggað. Hvernig sem brimrót mannlegrar vizku, heimspeki og þekkingar œðir, þá bifast þeir aldrei. Nýlega barst oss skeyti, sem rafmagn flutti úr þúsund mílna fjarlægð, frá fjölmenni miklu, er saman var komið á einum stað í Bandaríkjunum, til ársþings hins ev. lút. kirkjufélags vors, þess er haldið var í Argyle-byggð hér í Manitoba. Þér hafið lesið það. Það stendr á síðustu blaðsíðu kirkjuþingstíðindanna nýprentuðu, og hljóðar svo: „Guð gefi, að þau hin tvö megin-sannindi lútersku kirkjunnar, — sá sannleikr, að biblían er guðs orð, og sá sannleikr, að maðrinn réttlætist af trúnni eingöngu, — fái ávallt verið undirstöðu-atriði í kirkjufélagi yðar og bundið oss saman.“

Þetta eru þeir tveir stólpar, sem eg átti við. Og fyrir þá sök, að vér trúum á þessi tvö megin-sannindi, þessi tvö lífsnauðsynlegu undirstöðu-atriði, erum vér menn lúterskir.

Hornsteinninn, sem vér leggjum í dag, er högginn út úr þessu grjótlagi, þessum tveim bergtegundum. Annað er orðið, hið ævaranda orð, sem gefr mönnum eilíft líf, sem var í upphafi, var hjá guði og er guð — Jesús Kristr —, orðið, sem er kraftr til sáluhjálpar, hið guðinnblásna, opinberaða orð, sem guð hefir talað fyrir munn spámannanna, guðspjallamannanna og postulanna; en hitt er réttlæting mannsins, án

allra verka, að eins fyrir trúna á kvalinn, dáinn og upprisinn frelsara — Jesúm Krist.

Þennan hornstein skulum vér leggja — slíkan hornstein, og á honum skal söfnuðr yðar hér í Winnipeg reisa musteri þetta og altari þess.

Það þýðir meir en lítið. Það er fullkomin trygging fyrir því, að verk yðar heppnist. Í því liggr fyrirheit um það, að guð verðr með yðr og veitir yðr náð sína og margfalda blessan.

Guð blessi yðr öll í verki yðar. Amen!

## Útdráttr úr rœðu séra N. Stgr. Þorlákssonar.

,,Með því þér eruð komnir til þessa lifanda steins, — — þá látið yðr uppbyggjast sem lifandi steina.'' 1. Pét. 2, 4. 5.

Ef nokkur í hópnum ísl., sem fyrir rúmum 20 árum var að hugsa hér í Winnipeg um safnaðar- og kirkjumál, hefði spáð því, að ísl. söfnuðr í þessum bœ myndi ráðast í að byggja annað eins guðsþjónustu-hús og það, sem hér er í smíðum, þá hefði hann verið talinn draumamaðr og spádómr hans álitinn ofinn úr sama efni og draumar vanalega. En hafi nú nokkurn þá í hópi hinna kirkjulega hugsandi manna dreymt þvílíkan draum, þá erum vér sjónarvottar að því hér, að draumrinn er að rætast. En það, sem vér sjáum, sýnir oss líka, að söfnuðrinn hérna, sem byggir kirkjuna, hefir viljað láta hana verða sér til sóma. En ekki sér sjálfum að eins, heldr líka ísl. þjóðinni. Um það hlaut hann einnig að hugsa, sérstaklega vegna þess, að hann er í þessum bœ; því sökum afstöðu sinnar skipar bœrinn að sjálfsögðu öllum Íslendingum hér búsettum í fylkingarbrodd Vestr-Íslendinga og gjörir þá að merkisberum þeirra. Og vegna þessarar staðarlegu afstöðu þeirra hlýtr það að verða úr, að bæði skugga og birtu, sem framkoma þeirra hér kann að varpa á þá sjálfa, varpar hún sömuleiðis sérlega á Íslendinga alla. Um þetta hljóta allir góðir Íslendingar hér að hugsa, og þá ekki síðr allir góðir ísl. safnaðarlimir.

En annað hefir söfnuðrinn líka hlotið að hugsa um, —

það einmitt, sem postullegu orðin upplesnu minna á, — að hús þetta verði ekki eingöngu söfnuðinum og Íslendingum yfirleitt til sóma, að því er snertir ásýnd þess fyrir mönnum, heldr að það um fram allt megi sóma sér í augum guðs. Þetta á vitanlega að vera aðal-hugsunin.

Hornsteinslagningar-athöfnin minnir á þessa aðal-hugsun og sýnir, eins og orðin umgetnu, hvað nauðsynlegt sé, ef kirkjan á að sóma sér fyrir guði.

Það er litið á hornsteininn sem aðal-stein hússins og á alla hina steina þess sem honum áfasta á einhvern hátt. Ef þeir eru það ekki, þá eru þeir lausasteinar og um leið hættusteinar byggingarinnar.

Þegar hinn helgi höfundr hafði fyrir augunum musteri með þessa hugsun um bygging þess í huganum, þá sá hann mynd hins andlega musteris, kirkju Krists, sem guðs andi var byrjaðr að byggja í heiminum. Jesús Kristr stóð þarna sem hinn lifandi hornsteinn musteris þess og allir þeir, sem komnir voru til hans og stóðu í lifanda sambandi við hann — sem hið eilífa bjarg hjálpræðis síns, voru þá um leið orðnir lifandi steinar í musterinu.

Í kirkju þessari, sem hér er verið að reisa, eiga nú einmitt með öllu því, sem þar á fram að fara, lifandi steinar að tilhöggvast og verða lagðir í vegghleðsu hins andlega musteris drottins. Allir lausasteinar—dauðir steinar, hættu steinar — eiga að gjörast að lifandi steinum, góðum og gagnlegum, með því að þeir komist til Jesú Krists og fáist til að uppbyggjast sem lifandi steinar.

Að sama skapi sem þetta tekst, þessum tilgangi verðr náð, — að sama skapi mun hús þetta sóma sér í augum guðs.

Gefi guð, að þessum tilgangi með húsið um fram allt verði náð.

## Æfisaga.

Eg, Pétr Hjálmsson, er fœddr í Norðtungu í Mýrasýslu á Íslandi*. Ólst upp hjá foreldrum mínum, Hjálmi Pétrssyni og Helgu Árnadóttur, fyrst í Norðtungu og síðan á Hamri. 18 ára fór eg frá þeim, og eftir það spilaði eg á eigin spýtur

*) 15-5 '63.

víðsvegar um Ísland. Tvö ár stundaði eg jarðyrkjunám í Ólafsdal í Dalasýslu. Næstu tvö ár dvaldi eg í Hnífsdal í Ísafjarðarsýslu, starfaði þar að jarðabótum á sumrum, en á vetrum kenndi eg á nýstofnuðum barnaskóla. Græddist mér nú svo mikið fé, að eg sá mér fært að hefja skólagöngu, — og næstu tvö ár vann eg aftr suðr í Borgarfirði að iðn minni, en tók tíma úr tveim vetrum til að búa mig undir skóla hjá séra Jóni Ó. Magnússyni, þáveranda presti í Hvammi í Norðrárdal. 1887 tók eg inntökupróf í latínuskólann í Reykjavík, settist í þriðja bekk. 4 vetr stundaði eg þar nám, en á sumrum vann eg að vegagjörðum og jarðabótum víðsvegar um suðrland. Sumarið 1891 lauk eg prófi við latínuskólann með lakri 2. einkunn; fór samsumars til háskólans í Danmörku, las þar heimspeki (filosofisk propædevtik), sem eg tók próf í, — en auk þess nokkuð í forn-norrænu og þar að lútandi greinum. Hér þraut mig von bráðar fé til þess að halda áfram námi, og hvarf eg þá aftr heim ,,mislukkaðr stúdent''. Fór þá á prestaskólann í Reykjavík og stundaði þar guðfræðisnám í tvö ár, en vann fyrir mér við jarðyrkju og afgreiðslu gufubáts, sem gekk um Faxaflóa, o. fl., en auk þess naut eg mjög mikils styrks frá prestaskólanum. Allan þennan tíma var eg fastráðinn í að hverfa aftr til háskólans, ef verða mætti, að eg gæti lokið námi mínu. En þegar eg hafði lokið prófi í guðfræðinni (með lægstu 2. eink.) 1895, var mér nauðsyn að vinna fyrir mér. Í þrjá vetr kenndi eg unglingum undirbúningsfræði latínuskólans og önnur almennfræði að Blönduósi í Húnavatnssýslu og í Borgarfirði suðr. Fyrst á sumrum og síðan árlangt vann eg að bókfærslu við verzlun.— Sumarið 1899 fór eg hingað til Canada, án þess þó að hafa nokkurt sérstakt starf eða markmið fyrir augum, enda hefi eg starfað að ýmsri vinnu ýmist í Bandaríkjunum (Duluth, Minn.) eða í Canada, þangað til hið lút. kirkjufélag Ísl. hér veitti mér styrk til þess að geta lesið guðfræðina upp og kynnt mér hana við prestaskólann í Chicago.

Andlega æfisagan mín er ekki fjölskrúðug. Þótt foreldrar mínir ynni menntun af alhug, þá voru þau fátæk og ekki þess um komin að setja börn sín til mennta. — Alls áttu þau

15 börn og flest af þeim komust nokkuð á legg.—Þó hefir sú siðfræði, sem faðir minn kenndi börnum sínum bæði í orði og verki, verið öruggasti leiðarvísir fyrir mig, síðan eg yfirgaf hann; en grundvallarlög trúfræði og trúar hefi eg mest og bezt lært við móðurbarminn.—Engu að síðr hefi eg góðar og gildar ástœður til þess að minnast allra kennara minna—allt frá hinum fyrsta, Torfa Bjarnasyni í Ólafsdal, til kennaranna við prestaskólann í Chicago—með virðing, þó nokkrir hafi öðrum fremr haft betrandi áhrif á viljastefnu mína og gefið mér kærar endrminningar til æfilangrar geymslu, svo sem yfirkennari Halldór Kr. Friðriksson, háskólakennari L. Ussing, og síðast, en ekki sízt, Þórhallr Bjarnarson, forstöðumaðr prestaskólans í Reykjavík.

Það er ósk mín nú, að guðlegr náðarkraftr styrki veika, en viljuga, viðleitni mína, svo eg geti unnið kristindómi vorum og kirkju vorri nokkurt gagn. Þykist eg þannig geta bezt endrgoldið kirkjufélaginu örláta fjárveiting,—og umfram allt látið Íslendingum víðsvegar út um byggðir Vestrheims hœfast þakklæti mitt í ljósi fyrir innilegar vina-móttökur.

Staddr í Argyle, 20. Júní 1903.

Virðingarfyllst.

**Pétr Hjálmsson.**

---

Rœðurnar, sem þeir séra Friðrik J. Bergmann og séra Hans B. Thorgrímsen héldu á ensku við hornsteinslagning Fyrstu lút. kirkju í Winnipeg, birtast í heild sinni í blaði þessu í íslenzkri þýðing eftir ritstjórann. En af hinni íslenzku rœðu séra N. Steingríms Þorlákssonar, sem ekki var rituð, kemr að eins stutt ágrip frá honum sjálfum.

---

Séra Oddr V. Gíslason hefir sent mér bréf út af málinu um samband hans við kirkjufélag vort, því er uppi var á þingi þess hinu síðasta. Hann krefst þess, að það sé prentað í ,,Sam." Í næsta blaði mun það koma. Gat ekki fyrir rúmleysi komið nú.

**J. Bj.**

---



---

,,SAMEININGIN" kemr út mánaðarlega, 12 númer á ári. Sunnudagsskólablaðið ,,Kennarinn" fylgir með ,,Sam." í hverjum mánuði. Ritstjóri ,,Kennarans" er séra N. Steingrímr Þorláksson, West Selkirk, Man. Árgangsverð beggja blaðanna að eins $1; greiðist fyrirfram.—Skrifstofa ,,Sam.": 704 Ross Ave., Winnipeg, Manitoba, Canada.—

Útgáfunefnd: JÓN BJARNASON, (ritstj.), FRIÐRIK J. BERGMANN, ÓLAFR S. ÞORGEIRSSON, N. STEINGRÍMR ÞORLÁKSSON, PÉTR HJÁLMSSON, WILHELM H. PAULSON, HALLDÓR S. BARDAL.

Prentsmiðja Lögbergs.—Winnipeg.